# Instrúx
fyrir
# Hreppstjórnar-menn
á
# Íslandi.

Eptir konúnglegri allranádugustu skipun,
þann 21ta Júlii 1808,
samid, og hlutadegendum til eptirbreytni
útgéfid
þann 24da Nóvembr. 1809.
af
Íslands Amta-Yfirvöldum.



Leirárgördum, 1810.
Prentad á publiqve kostnad, af Faktóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfjord.

## I. Um Hreppstjóra Skyldu yfir höfud ad segja.

§. 1

Hreppstjóri hverr breyti med undirgéfni og naqvæmlega eptir Landslögunum, konúnglegum og vidkomandi Yfirvalda og Réttarins Embættismanna Fyrirskipunum, sömuleidis eptir þessu Instrúxi.

§. 2. Hann skal grandgæfilega adgæta allt hvad til hlýdnis og hollustu vid Konúnginn, Landslögin og rétt Yfirvöld, og til gódrar reglu, sidsemis og sveitargagns ad legum horfa ... og framfer í sveitinni, og þarum, ásamt því, ... hann þessu gagnstædt verdur var vid, og eins um önnur laga afbrot, géfa Sýslumanni s... fljóta ávísun, áminna hlutadegendur um skyldu þeirra; en sé þeirri áminníngu ecki eda illa gégnt, tilkynna þad Sýslumanni, hvers úrskurdar og fyriskipana um allt hann skal leita, alls engann úrskurd um yfirsjónir sjálfur fella, og engar bætur hjá neinum, án Sýslumanns skipunar, úttaka. En nidurskipun fátækra til framfæris í sveitinni, og tillaga skipti til þessa, afgjeri Hreppstjórar einir med rádi þeirra Sóknarpresta Samqvæmt Kóngsbréfi frá 11ta Apr. 1781, §. 6., gégna þeir og mótmælalaust þeirra Sýslumanns rádstöfun, um innansýslu fátækra sakir. Hvar 2 Hrepp-

stjórar útnefnast í fólkríkum sóknum, skipti þeir hreppnum á milli sín, eptir fólkstölu og ásigkomulagi, sem jafnast, og hafi síðan sérlega umsjón hvörr í sinu umdæmi, með það sem Lög og Fyriskipanir gjöra Hreppstjórum að Embættisskyldu, en aðstoði þó hvörr annann í vandamálum.

§. 3. Verði honum send nockur bréf, konúnglega eða landsins opinberu þjónustu snertandi, og þanninn af Embættismönnum útanverðt áteiknuð, til framfærslu, skal hann tafarlaust leiðbeina þeim áleiðis til næsta bæar, og fyriskipa þeirra burð, án undandráttar, løgbýla á milli, rétta leið áfram eins fljótt og skilvíslega, sem í Landslögum fyrirsegir, í Framfærslu b. X. Kap. um boðburð, og til næsta bæar utanhrepps, egi þau út úr hreppnum að fara, undir 1 rdls. sekt til fátækra, fyrir sérhvørn búanda, er forsómar hérvið skyldu sína, samqvæmt Köngsbréfi frá 26ta Júnii 1782 §. 2., og skal Hreppstjóri grenslast eptir, hvørt hyrduleysi verður af nockrum hérvið auðsýnt, en fyrir Sýslumanni ákjæra hér um þá seku til bóta.

## *II.* Um Helgar og Bænadaga.

§. 4. Hreppstjóri hafi tillit með, að helgi- og bæna-dagar heidrist eptir Tilskip. af 29da Maji 1744, að því leiti einstakra nauðsyn eða almennings þørf ecki býður að sjá ígëgnum fingur með þeirra notkun, svo sem með sjóferðir og bjørgun eigna og atvinnu manna frá skemd-

um,

um, med fiskiródra í bágum árum og á styrjaldar tímum, eda þá høpp eru líkleg, samqvæmt Tilskip. af 13da Okt. 1797, en gánga skal samt eptir $\frac{1}{7}$ til fátækra af øllum helgidaga abla, eptir Jónsb. Framf. b. IX, og Rekab. X. Kap., frá hvørju fiskineta abli, eptir nýuefndri Tilskipun, þó sé undanskilinn. Í tilliti til þans, og útlagsbóta fyrir helgidaga brot, sé Hreppstjórum og ødrum hlutadegendum regla, Cancellí-br. frá 29da Júlii 1786, og Kóngsbr. frá 7da Mart. 1788.

§. 5. Hann framfylgi alvarlega hlýdni vid konúngleg legmál, útgéfin þann 29da Maji 1744 og 26ta Okt. 1770, úm brúkun aftekinna pápiskra og óþarfa helgidaga, til bjargrædis útvega, eda atorkusamrar heimilis forstødu, allstadar í sveitinni.

§. 6. Hann géfi nákvæmlega gaum ad yfirsjónum og óreglum, sem á helgidøgum fremjast, med dryckjuslarki, ryskíngum, mælgi eda hávada í kirkjum eda vid þær, og ákjæri til sekta, eptir Kóngsbr. frá 26ta Júnii 1782 §. 3., sømuleidis ofdryckju altarisgaungufólks, eptir Tilskip. af 3ja Júnii 1746, um Dryckjuskap. Og þar sú hneixlanlega óregla fer sumstadar vaxandi, ad kirkju-fólk dregur hunda med sér til kirkju, hvørra fjøldi, áflog og hávadi glepur fyrir verduga athygli manna, er þeir opt færast inn í kirkjudyr, eda jafnvel sjálfa kirkjuna, til mesta hneixlis og ósæmdar vid opinbera Gudsþjónustu, þá skal Hreppstjóri hvørr stedugа adgætslu hafa á,

ad enginn adkomandi í sókninni, hafi med sér hund ad kirkju á messudøgum, áminni tvisvar opinberlega, eptir embættisgiørdir, þarum, en sé þvi samt ecki gégnt, uppskrifa sidan vottanlega þá, sem í þessu óhlýdnir finnast, og gèfi þad Sýslumanni til kynna, sem án tafar úrskurdar þá sekn adkomumenn ad gjalda 16 ßz. í bætur fyrir sérhvørn hund, þeir hafa med sér til kirkju í hvørt sinn, og eigniſt Hreppstjórar þær bætur, sem án løgsóknar úttakist af eigum hinna.

## *III.* Um Sidgædi og rádvendni.

§. 7. Hann má ecki lída Brennuvíns-skeinkingar eda útsølu í staupatali af þeim, sem þartil hafa ecki vidkomanda Amtmanns leyfi; ecki dryckjuhús fyrir ferdafólk, eda lausu og illa ræmdu qvennfólki adsetur í sjóbúdnum; ecki brotlegum persónum ad lægords-málum ad halda til á sama bæ eda í sømu sókn; ecki ad Prestum sé brennuvín fært eda bodid af fólki, vid þeirra embættisverk í kirkjum eda vid hússvitjanir í embættislauna stad, og ecki ad fólk færi brennuvín ad kirkju eda til þings til sølu eda veitingar þar hvørt ødrum. Honum ber einnig umsjá, ad engin veitsla sé haldin í kirkjum ákjærulaust.

§ 8. Blygdunarlaus og skammarleg nidrit, nídqvedskap og nafnagiftir, sem eru annadhvørt sidsemi, rádvendni og kristinndómi gagnstæd, eda æru og gott mannord fólks meidandi,

á hann

á hann ecki ad líða útdreifð í sveitinni eða um hønd høfð, heldur grenslast eptir um þeirra høfund, og gefa Sýslumanni þvíumlíkt strax tilkynna, til alvarlegs straffs og sekta, eptir Tilskip. af 27 Sept. 1799, §. 9, 12, 13, 25, hvar með hann ásamt innkalli fátækra tekjur fyrir þesshattar stórglæpi. Sømuleiðis eptir Tilskip. frá 28da Dec. 1792 §. 3, vínkilskrifara bætur, sem á klaganir ránglega teikna ritarans nafn.

## IV. Um undirgefni og góða reglu.

§. 9. Eins og hvørr Hreppstjóri sjálfur er skyldaður til, í øllu að hlýða Landsløgunum, og viðkomandi Yfirvalda og Réttarins Embættismanna boðum í laganna nafni, svo skal hann nákvæmlega krefja hlýðni við allt hvað hann almúganum í embættisnafni fyrileggur, og að fólk taki með virðíngu sérhvørri hans áminníngu, beint eptir auglýstu boðorði Konúngs, þann 2 ta Júlii 1808, en brjóti nockurr þar á móti, ákæri þann sama, eptir 3ja Artikula, hlífðarlaust fyrir Sýslumanni, til harðrar refsíngar, øðrum óhlutvøndum til eptirdæmis, samqvæmt Stiptamtsins þarum auglýstri, og frá enum konúnglega Landsyfirrétti á íslendsku og prent útgéfinni fyriskipun, sømuleiðis Tilskip. þann 3ja Júnii 1746 §. 32, um húsaga, og Jónsb. Framf. 6 IX. Kap., sem leggja 1 rdls. specie sekt við óhlýðni gégn Hreppstjórum. Þar hjá skal hann með alvørugefni, sameinaðri leimpni og góðsemd við almúgañ,

stunda

stunda ad koma í veg fyrir allann mótþróa og yfirsjónir einfeldnínga í þessu tilliti.

§. 10. Sömu reglur um framferdi milli húsbænda og hjúa, foreldra og barna, skal hann, allstadar hvar hann í sveitinni finnur vidþurfa, brýna fyrir hlutadegendum, og gagni þad ecki, átelja þá, sem hlutadegendur fyrir honum ákjæra, sem stórum brotlega í þessu, fyrir Sýslumanni, til sekta, eptir Tilsk. frá 3ja Júnii 1746, um húsagann. Sömuleidis lyga- þvættings- og sladurs hófunda, og blygdunarlausa blótvarga, eptir sömu Tilskipun. Yfir höfud ad segja: ástundi hann í öllu ad ákoma gódri og sidsamri reglu hjá almenníngi, og þessvegna einkum vid brúdkaup, erfis-dryckjur og almúga veitslur, naudsynlegri hófsemi, forsjálni og sparsemd.

## V. Um hreinlæti og þrifnad.

§. 11. Hreppstjóri áminni almúga ydugleg, hvar hann finnur þess vidþurfa, til hreinlætis og þrifnadar, utan bæar sem innan, einkum í barna þjónustu, fatnadi, matar medferd, peníngsrækt og til gódrar hagnýtíngar alls á búi. Í verplátsum er þessa einna mest þörf og fyriskipad í Tilskip. frá 13da Júnii 1787, Kap. III. §. 1.; 5ta Sept. 1794 §. 1., hvar fyrir hann og hardlega haldi almenníngi til ad afleggja þau andstyggilegu Foraösu fyrir framan bæi, sem gjörir adkomu þángad jafnvidurstyggilega og veru óheil-

næma

næma í húsum, sem í hitum, og þá vindur ber á bæinn, fyllast med dráplegum ódauni og óhollustu dømpum, en þeir, sem finna nockud gott vid þvílík foraøsn til áburdar, áminnist um ad hafa þau afsídis frá bænum, einkum nedanhallt vid fjóshauga, svo þarí fygi frjófgandi løgur fyrir vøllinn í regnum frá haugnum, og þvílík søfn verdi miklu drjúgari og nytsamari. Hreinlega og hagnadarsama medferd á hrossakjøti, þegar til matar er haft, hefir Konúngur, þann 21ta Júlii 1808, bodid Yfirvøldum ad fyriskipa, hvarmed nákvæm umsjón er Hreppstjórum hérmed á hendur falin, eins og Stiptamtid, þann 18da Sept. þ. á., hefir ádur þeim uppálagt.

## VI. Um góda Bússtjórn.

§. 12. Pared góð bússtjórn egiulega er innifalin í vardveitslu þeirra, í 10da og 11ta pósti framteldu skyldna, og ásamt því, ad haga svo skynsamlega búnadarháttum, eptir ymislegu ástandi til sjós eda sveita, og jardar eda húsmennsku ásigkomulagi, ad sem affarabest verda megi ørregum, hvørra þess fleiri reynast, því midur! skammsynir og rádlitlir, sem forsjálni, regla, sparsemi og þrifnadur, leidir velflesta úr ørciga tølu, þá ber Hreppstjóra med þessum fátæku ad hafa ydduglegt tillit, leggja þeim øll búsheilrædi og áminna um hvad þeim vyrdist aflaga gánga, aptra ódádi og svallsemi þeirra, og eptir því, sem þessu er vel eda illa gégnt, vyrda sérhvørs þurfamanns bjarg-

rædis vidleitni, þegar hann kann ad medþurfa lid: sinnis af hreppnum.

## VII. Um góda Hreppstjórn.

§. 13. Þetta tillit er ad sønnu einhvør hin fyrsta og eginlegasta grein gódrar hreppstjórnar, ad því leiti þad má koma í veg fyrir margfeld bágindi og þýngsli fyrir sveitir, fátækt og jafnvel horfall auminga í hallærum, samt er fjølda margt annad, hvarmed framqvæmdarsamur Hreppstjóri á ad votta dugnad sinn, stjórnsemi og forsjá, þegar vidliggur, fyrir því sem hreppnum vardar, eins og Jónsb. Framf. b. IX Kap. honum á hendur segir; svo sem: þá eldsvodar, skriduføll, snjóa- og vatns-flód; næmar sóttir; drucknun bænda og fyrirvinnenda, eda ønnur stór óhamíngja adber, og setur hmist eckjur og munadarleysíngja, eda heil heimili, vid mißir eigna og ábýla, í þrot eda lífshásk a. Þá ad votta dugnad og framqvæmd med útvegun jardnæda og húsaskjóls, bjargrædis og forþénustu, med vinnu, med uppvakníngu efnugri manna til hjálpar, med rádstøfun ómaga á hentuga og góda stadi, og med skjótri útvegun gódra lidsmanna til bjørgunar fólks vid lífsháska á sjó eda landi, einninn eigna vid elds- og annann voda, er svo mikill sómi og velgjørd vid sveit sína og føđurland, ad sérhvørr Hreppstjóri, sem vill dánumadur heita, mun láta sér hugfast, ad verda eptir 24da pósti ødrum forþéntari vid uppfyllíngu svo mannkjærlegra skyldna, ad nóg vyrdist einúngis ad benda hér til þeirra.

§. 14.

§. 14. Þar hægra er opt ad fyrirbyggja bláfátækt og sveita-vandrædi, enn sídan ad greida úr þeim, ber Hreppstjóra ad gángast fyrir upptekt og byggíngu eydijarda og nýbýla í sveitum, til ad útvega líklegu tómthúsfólki þar stadfastari atvinnu og smámsaman fækka þessu, þá verdur; áminna um móskurd og hagnýtíngu fjártads til betri vallaræktar, en banna þess brennslu, hvar annad eldsneyti fæst, svo ad gott fódur fyrir 1 eda fleiri kýr skjótt kynni þanninn ad ávinnast, og af þeim mikil björg fyrir búendur árum saman; einninn um fækkun óþarfa hrossa í heimahögum frá málnytu. Halda í lengstu leg fátækum búendum vid ábýli, heldur enn hleypa hyski þeirra útá sveit til misjafnrar forsorgunar og uppeldis, hvörs vegna honum aldrei skal leyfilegt, þó til sveitar-þýngsla horfi hjá fátækum hjónum af varandi ómegd, ad fella bú þeirra, medan nockur úrrædi betri sjást, og ecki ad rádstafa þeim í fjærvistir eda til hreppa sinna, medan þau sjálf verda ecki handbjargar ómagar, edur med löglegu móti adskilin. Vera skal hann og í gódum rádum med fátæklíngum og ósvilsömum um heya ásetníngu, eptir sérhvörrar sveitar ásigkomulagi, án þess ad svipta nockurn mann umrádum eigna sinna; adgæta þeirra byrgdir, vinnubrøgd, rádlag vid og vid, og útvega þeim, ef mögulegt vera kynni, hentuga vinnu, eptir því, sem Tilskip. af 3ja Jún. 1746 um hús aga §. 32. þeim uppáleggur; mótmæla giptíngum veikra, (sjá 39 Art.) einninn ófnyttasamra vankunnandi,

 at-

atvinnu- og ábýlis lausra svallara og letingja, uns á þessu reyniſt bót, og þeir mega forstødu veita børnum og hjúum, eptir Tilſkip. frá 3ja Júnii 1746, um hjónabands mál, §. 2., og Kóngsbréfi frá 28da Mart 1776. Verdi samt heya-þrot hjá nockrum, bannar Plakat frá 19da Septemb. 1806, framar ad taka upp hey, eptir Jónsb. Landsl. 6. XII. Kap., hjá ødrum byrgari, til framfæris fódurlausum peníngi, vilji egandinn þad ecki gódmótlega af hendi láta.

§. 15. Í verplátsum ber Hreppstjórum ad umsjá, ad Tilſkip. frá 28da Febr. 1758, af Konúngi stadfestri, þann 13da Júnii 1787, og ødrum, um fiskiabla á sérlegum stødum gyldandi, eda héreptir útkomandi, Fyriskipunnum, sé eptirlifad. Sømuleidis, ad Ædarfugl allstadar og á øllum ársins tima, eptir sídastnefndri Tilſkipun, 1787, og konúnglegu bodordi, þann 21ta Júlii 1808, frá Stiptamtinu, þann 18da Sept. þ. á., á prent útgéfnu, verdi fridadur, og sérhvørt viljandi dráp hans til sekta, án hlifdar, ákjært.

## *VIII.* Um Hreppstjórnar-þíng, Tíundargjørd og Tíundar-svik.

§. 16. Jónsb. Framf. 6. XII. Kap. og Reglugjørd frá 17da Júlii 1782, 1ti og 2ar Artik., heimilar Hreppstjórum árlega ad halda Þing og Rétt, fyrir hvørjum búendur framtelji góz og peníng sinn til tíundar; leggur Reglugjørd þeßi Hreppstjórum ljóslega fyrir, eptir hvørri reikníngs

reglu,

reglu, og med hverjum hætti, sé manna egi þar til tiundar ad meta, hvert sem vidkomendur mæta eda ecki, og Tilskipan frá 1ta Sept. 1786, hvörsu tiundar-svik egi hér ad straffast. Eptir þessum lagabodum ber Hreppstjóra hvörjum ad breyta, og rétt er, ad hann ákjæri þá fyrir Sýslumanni, sem hann, med rökum, um tiundar skilsemi misgrunar, en sjálfur má hann enga eida taka.

## IX. Um Tiundar-reikninga, Lista yfir býli og búendur, etc. í tiund, og yfir lausafjár-tiund, og um Landbúskapar töblur.

§. 17. Hreppstjóri skal senda Sýslumañi, sem Fógeta og Pólitiemeistara á landinu, greinilegann Reikning yfir allra búenda og búlausra tiundargjörd í sveitinni, rétt útdreginn af hreppsbókinni, en annann samhljóda Sóknarprestinum, og þann þridja Kirkjueigandanum, hvar nockurr er í hreppnum, eda þá þeim, sem þar heldur kirkjureikninga hans vegna, hvörja reikninga alla Hreppstjóri á ad undirskrifa. Þaradauki skal hann senda Sýslumanni, í tvennu lagi, lista yfir alla búendur og búlausa, sem tiunda 1 hundr. af lausafé eda meira, og þará sérílagi tilnefna, hvörjir í einbýli eda fleirbýli séu, svo ad Sýslumadur þarmed sannad fái reikning sinn árlega yfir Lögmanns-toll, á medan hann geldst. Loksins sendi hann Sýslumanni lista yfir alla lausafjár-tiund í sveitinni, úr hvörjum lista hann þó undanfelli kónglegra Embættismanna, þeirra

 eckna

ecfna, og sjálfs Hreppstjórans lausafjár-tíund; svo ad sakamála-kostnadur, þegar á Amtid nidurjafnast þarf eptir lausafjár-tíundar megni, samqvæmt Kóngsbr. frá 10da Maji 1788, og 25ta Júlii 1808 §. 3., verdi þar eptir nidurskiptur ad réttri tiltølu á sérhvern. Ega þeßir listar eins ad vera undirskrifadir.

§. 18. A Hreppstjórnar þínginu ber honum, med Sóknarprestsins adstod, reglulega ad innfæra í Landbúskapar (oekonomisku) tøblurnar, allt hvad ber, í sérhvørn dálk, útundan sérhvørju ábýli og þess ábúanda nafni, gánga eptir, ad allt sé til þeirra framtalid, og vara vid sekt þeirri, er annars má vidliggja, ad Kóngs bodi, frá 19da Júnii 1793. Tvær samhljóda Landbúskapar tøblur, sømuleidis undirskrifadar, á hann, ásamt fyrrtøldum tíundareikníngum og listum, árlega ad senda Sýslumanni skilvíslega vid útgaungu Október mánadar.

## X. Um Hrepps-bækur og Sveitar-kassa.

§. 19. Fyrir sérhvørja sveit skulu Hreppstjórar halda sérlega Hreppsbók, gégnumdregna og uppáskrifada af Sýslumanni, og í hana innfæra allt inn- og út-gjald til fátækra framfæris, af tíundum, auka tilløgum, veidum, bótum og gjøfum, samqvæmt Stiptamtsins fyrirskipun, þann 26ta Decembr. 1785, auglýstri í prentadri Løgþíngisbók fyrir árid 1786, bls. 33. og Cancellí-skipun þann 11ta Júlii 1789. Hvad

af-

afgángs verdur í peníngum frá útsvari til fátækra framfæris, hvört ár, þegar þessu vid Októbers mánadar lok er nidurskipt, skal Hreppstjóri vandlega geyma sérílagi, undir Sóknarprestsins og Medhreppstjóra, hvar fleiri enn 1 eru, og hans egin innsiglum, sem ecki mega opnast, nema í Prestsins vidurvist, svo eins innsiglist aptur, þegar af er tekid eda vidbætt.

## *XI.* Um Fátækra Tekjur.

§. 20. Fátækra vissu tekjur eru ad eins Tíundir, eptir Reglugjørd frá 17da Júlii 1782, en þar þessar optastnær ná skammt til sveitarinnar fátækra forsorgunar, og uppá þær óvissu er ecki neitt stødugt ad byggja, skal hann, med adstod og rádi Sóknarprestsins, hvørjum umsjón med fátækum og þeirra forsørgun er med hans Kallsbréfi, Tilskip. frá 27da Maji 1746, í Art. 19da, Cancelli skipun, þann 11ta Júlii 1789, og Yfirvalda fyrirskipun uppálagd, og bodid ad halda og undirskrifa, ásamt Hreppstjórum, reikníuga yfir fátækra forlagid í hreppsbókunum, vandlega samanreikna hvad til vidbótar tíundunum vidþarf, og, sé árferdi sæmilegt eda betra, leggja þar framyfir teluverdt til vara, svo úr ófyrirsjedum hrepps vandrædum, sem sídar kynnu uppá ad falla, svo sem: þá einhvørr hreppsmanna ratar í stór bágindi, eda ómaga tala kann ad aukast á hreppnum, verdi, án nýs útsvars greidt, og drjúgur fordi smámsaman upplagdur í sveitar-kassann

år

ár frá ári, til neydar afléttirs í þá og þegar uppáfallandi hallærum. Þetta þanninn ríflega reiknada auka-tillag í vidbót tiundanna, jafnar hann med Sóknarprestinum, sem sanngjarnlegast nidur á alla, er tiund gjøra í hreppnum og adra húsbændur, sem efni til hafa, ecki eptir tiund einni, heldur ad yfirvegudu sérhvørs margbreytta ástandi, efnum, fjølskyldu, og s. fr., med allri þeirri hreinskilni, sem hans Hreppstjórnar eidur skyldar hann til, og innifelst í þessu auka-tillagi allt hvad ádur hefir í tolla og auka-tilløg til fátækra krafid verid, sem matgjøf, manneldi og þvíumlíkt, hvørs framvegis ecki ber ad krefja. Þó afgángs neydarfordi verdi þanninn í fleiri gód ár upplagdur í sveitar-kassann, og óvissar tekjur til muna bætast kunni fátækum, má þad samt ecki í medal- eda betri-árum minka neitt þad framyfirlagda til fordasáfns, vid aukatillagsins áqvørdun; en svo ad Sýslumadur ætíd viti gjørla byrgdir sérhvørs hrepps kassa, skal Hreppstjóri árlega í Októbers mánadar lok, ásamt tiundareikníngunum, gésa honum til kynna, upphæd sveitar-kassans afgángs peninga, hvaraf hann fái sjed, hvørsu þessari skipun, um vaxandi safn til neydar-forda, er af Hreppstjóranum eptirlifad, og sérhvørs kassa ástand.

§. 21. Med óvissum tekjum fátækra telijast: a) Helgidaga veidar, eptir §. 4; b) sá partur af fátækra peníngum, sem Konúngur árlega mildilegast gésur í hvørja Sýslu, er hlotnast kann til skipta sérhvørjum hreppi; c) frivilljugar

ar gjafir góđviljađra, einuinn efſtu Embættis-manna til fátækra, eptir Reglugjørd frá 17da Júlii 1782; d) Náúnga og ćekta barna for-eldra tilløg til ómaga framfæris; e) forbrotn-ar vørur, abli og bætur eptir dómum og úr-ſkurđum Dómſtóla og Yfirvalda, fyrir meiri og minni yfirſjónir, um hverjar, og annađ, er viđ Hreppſtjóra embætti má þeim til frekari vegleidſlu og lærdóms ſkéna, þeir vænta kunna, ef hentug-leikar leyfa, ađ ſjá ýtarlegri ávíſun á prenti þeim til íhugunar um, hvađ ſveitanna gagni, og ſkyld-unni ađ efla þađ framar, viđkoma kynni.

## XII. Um Framfæri og Forlags-eyri.

§. 22. Þegar efi eđa ágreiníngur nockurr verđa kann um, hvar ómagi egi framfæri, eđa hvørt Náúngum, utan eđa innan ſýſlu, gjøriſt ađ løgum þennann ađ annaſt, heldur Hreppſtjór-inn ſig um þetta til ſíns Sýſlumanns, einninn um þeſs forlagseyris upphæđ, ſem náúngum eđa utanhrepps mønnum, eptir tíđ og áſtandi, ber til hrepps hans ađ greiđa, og á hann í øllu ađ hlýđn-aſt fyriſøgn og úrſkurđum Sýſlumannſins, ſem Yfirvalds og Pólitiemeiſtara, og hvar ágreiníng-ur um ómaga framfæri er milli 2gja ſýſlna, viđ-komandi Amtmanns fyrirſkipun. Aldrei ſkal Hreppſtjóra leyfilegt, ađ láta ómaga flytja á náúnga eđa hreppa, nema Sýſlumanns ſkrif-leg fyriſøgn þarum međfylgi; aldrei ađ þráreiđa ómaga ødrnvíſi á milli, heldur ákjæra þá ađ løg-

 um

um til sekta, er mótþróa dyrfast ad sýna, og aldrei ad vísa vistføstum þúngudum qvennmønnum á sveitir þeirra; því fædíngar-hreppur barna skal ecki gylda til framfæris, annar enn sá, hvar módir átti stadfast legheimili, þegar hún fæddi; en komi vinnukona ólétt í vist, og sé þar medtekin sem hjú fulla viku, og henni ecki fyrir þad, þá vitanlegt er, burtu vísad, skal hún enda þar ársvist sína.

## *XIII.* Um Ómagahald.

§. 23. Hreppstjórinn láti sér umhugad vera, ad sérhvørr ómagi forsorgist vel og forsvaranlega, bædi í tilliti til fædis, þrifnadar, fatnadar, uppeldis únglínga og mentunar í bókløstri, kristinndómi, gódum sidum og vinnu, og ad þeim med þessa verdi ecki svo ofþhugt, ad baga þurfi framfør þeirra og þroska, eda bila þá til heilsu, og sjái hann um, ad þeir haldist vid sama kost og adbúnad, sem annad verkafólk eda børn á bænum. Í þessu tilliti láti hann sér hugføst bodord Tilskip. af 3ja Júnii 1746, um húsaga, 6ta, 9da og 14da Art., Tilskip. af 27da Maji 1746, um húsvitjun, §. 17da, og Kóngsbr. frá 2um Júlii 1790, §. 2, 4, 6, 8, 9. Þegar ómagar skálpast, leggur hann alúd á, ad fá þá, sem allra fyrst, vistada á gódum stødum, jafnvel med nockurri þócknun í fyrstu, en sjúkum og ørvasa sjer hann fyrir þeim líkleguslu samastødum, til ad fá þeim hentuga adhjúkrun. Ennþótt Kóngsbod, þann 21ta Júlii 1808, leyfi ad innleida hrossakjøts brúkun í sveitir til ómaga-

maga-framfæris, mun þad þó ecki ödruvísi ad skilja, enn svo, ad medan nærverandi kríngumstædur, sirld, tepptir adflutníngar, og þaraf leidandi bágindi, eda sídar, þá hallæri adþrýsta, gjöra þad naudsynlegt, skuli þess brúkun til ómaga-framfæris innleidast, en ecki svo, ad ómögum einum sé þad bodid til fædis, heldur ásamt ödru fólki, hvar sameginlega vidþarf, en ecki þegar nægd er af ödru, ad því sé otad fram í ómaga tilleg; einkanlega er sú hjálp mikilvægust til ad vidhalda þeim bjargarlitlu eda naudstöddu búendum med þeirra hyski, sem annars vidþurfa sveitar styrks, egi þeir ecki ad freista hor og húngur.

## XIV. Um Sveitar vandrædi.

§. 24. Þessi brúkun hrossakjöts er þessvegna einkum árídandi, til ad afletta sérlegum uppáfallandi sveitar vandrædum vid flisfarir, voda og ógæfu tilfelli, eda þá almennt hallæri og bár yfirgánga. Med lemptum og gódsömum fortölum þá ad hræra betur megandi menn í sveitinni þurfamönnum til bjargar; med rádstöfun fólks og fódurlauss penings til ljúfmannlegrar forsorgunar á líklegum stödum; med útvegun fyrirvinnu, vinnuefnis og húsnædis einstædíngum og fátæklíngum til handa, samqvæmt Tilskip. af 3ja Júnii 1746, um húsaga, §. 32, og med því ádur svo ad hafa vidbúist þessum vandrædum á betri tíd, ad nockurs afgángs sé þá í neyd til ad taka í sveitar-kassanum, med öllu þessu á forsjáll

og umhyggjusullur Hreppstjóri sérhverr, einkanlega þá, eptir 13da Art., ad votta dugnad sinn og framqvæmd til medbrædra frelsis, en alls eckert Betli-bréf er þeim leyft ad útgéfa, eptir Kóngsbr. frá 10da Mart. 1784, og enn sídur er þad Prestum leyft, eptir NL. 2—11—4, Tilskip. um skriftastól og altarisgaungu, frá 27da Maji 1746, §. 5, og Kóngsbr. um passa frá 11ta Apr. 1781, undir 1 rdls sekt til nærsta Hospitals.

## XV. Um framqvæmd vid skipreika, eldsvoda og ønnur háska-tilfelli.

§. 25. Hvørvetna þar, sem hann verdur áskynja um, ad menn eru í lífsháska staddir, á landi eda sjó, eda í vøtnum, vid eldsvoda, skipreika, vatnsføll, flód og sérhvør voveifleg háska tilfelli, skal hann tjá sig duglegann og framqvæmdarsamann forgaungu-mann, til ad bjarga mønnum og góþi úr háska, hvar megulegt er, hvetja og útvega góda lidsmenn þar til, og votta sig þar verdugann leidtoga og Hreppstjórnarmann; einninn géfa øll þvílík tilfelli og þarvid sýnda vidleitni Sýslumanni til kynna, og þá sem vid þessconar tækifæri vottad hafa sérlegann dugnad og mannkærleika, fyrir hvørn koúnúngleg mildi hefir þarhjá, eptir Plakati frá 14da Sept., med bodi sínu, þann 29da Aug. 1798, heitid 10 rdla verdlaunum, sé nockrum úr, annars óumflýanlegum, lífsháska bjargad, eda þeim komid aptur til lífs, sem vyrdist daudur. Vid skipastrøndun skal hann

og tjá sig framqvæmdarsamann með alla tilsjón, björgun og góða meðferð skipbrotsmanna og eigna af þeirra skipum, samqvæmt Tilskip. frá 21ta Mart. 1705, §. 14, 17, 21.

## *XVI.* Um Sparsemð og Framsýni.

§. 26. Sparsemð og framsýni eru svo heillavænlegar dygðir, að Konúngur vor hefir, með opnu bréfi, þann 14ða Dec. 1808, nú á íslendsku prentuðu og auglýstu frá Stiptamtinu, þann 18ða Sept. 1809, fundið nauðsynlegt að áminna einn og sérhvørn til þeirra ástundunar, bæði í allri hófsemi, sparnaði og framsýni helst að bjargast við innlendar handyðnir og klæðnað, sem sjálfir vér tilbúið gétum, en án verið að láta framandi útarma oss með þeirra óþarfa glíngri. Um þetta, og að hagnýta sem best, allt hvað náttúran géfur hér faung til; að fólk vinni, tilbúi og abli sem mests sjálft; að almenníngur leggi alla alúð á að betra sínar handyðnir, venja sig af óþarfa kaupum og brúkun ónauðsynlegra muna, svo sem: ølfánga, tóbaks, kramvøru, útlendra klæða, kaffees, sykurs, indígós, og — þá skortur er á því nauðsynlega — að láta ecki lífsbjørg sína af hendi fyrir þvílíkt, mót konúnglegu forboði, þann 8da Apr. 1782, og í Plak. frá 19da Apr. 1786, §. 3, heldur, samqvæmt boðum þessara lagasetnínga, spara í tíma allt hvað verður, bjargast við allt hvað tækilegt er í stað þess saknaða, og minnast: að ecki hentar allt að eta upp á einu málinn,

þó einhver lífsbjörg bjódast kynni til muna, en ecki síst, ad varðveita hana og allt, sem best verdur, til frambúdar; um þetta allt ad áminna, er adalskylda, sem Hreppstjórum hérmed uppáleggst, og undireins þér um ad halda jafnadarlega á mannfundum vid kirkjur, á þíngum, í ver= og kaupstödum skynsamt og gódmótlegt samtal vid hreppsbændur, en sjálfum ad rádgast vid vitra og reynda forstandsmenn, um hvad í þessu efni mætti, eptir tíd og ástandi, vyrdast best henta. Þarhjá áminni þeir, eptir 10da §, um skynsamlega sparsemd, án fjölmennis eda heimskulegs og óþarfs kostnadar, vid brúdkaup og greftranir manna, hverja flestir vitrir menn hafa nú þegar adhyllst og innleidt, samqvæmt Tilsk. af 27da Dec. 1799.

## XVII. Um atorkusemi og framqvæmd til bjargræda.

§. 27. Næst sparsemd og framsýni, skal hann áminna hreppsbúendur alla, sem hann finnur þess vidþurfa, til allrar atorkusemis og framqvæmdar til bjargræda. Það er vors Konúngs bodord, þann 21ta Júlii 1808, kunngjört á prenti frá Stiptamtinu, þann 15da Maji og 18da Sept. 1809, og Hreppstjóra gömul skylda, eptir Tilskip. af 3ja Júnii 1746, um húsaga, §. 32. Hann áhysi þessvegna fólk til gódrar og fylgisamrar landyrkju og peníngs ræktar; til sjóródra, hvar ablavon er, og fólk til þeirra missast má frá landbúskap; til gódrar hagnytingar og vardveit=

slu alls; til fjallagrasa sesnunar og solva tekju; til skélfisks brúkunar til fædis; til laxa,- silúnga- og sela-veida, hvar likleghéit nockur frambjódast; til salltgjørdar vid sjó; til kjøtþurkunar; til rjúpna- og annara fugla-veida; en einkum til kályrkju; til fylgissamrar innivinnu, handydna, tóskapar og vefnadar, til ad útvega bjargrædi og þarflega aura fyrir, og til klædnadar sér og sinum.

## XVIII. Um Géldpenings-rekstur á afrétt, Fjallskil og Markatøblur.

§. 28. Hreppstjóri gángist fyrir og ákjæri til lagasekta, ef ecki er hlýdt, ad allur géldpeníngur, ótamin hross, géldneyti, géldfé og málbær eda fráfær lømb, rekist á vorum úr allri sveitinni á Afréttir, hvar nockrar tilliggja, eda eru til leigu ad fá, en isdist ecki i heimahøgum, búendum til stórskada á málnytu, tødum, engjum, heyvinnu, med tøf til vørdslu, og á vetrarbeitar høgum. Hann kalli sérhvørn, af hvørju hellst standi sem hann er, og sem 6 fullordnar saudkindur eda fleiri á, eda hefir undir hendi, sømuleidis til fjallskila og til ad leggja til mann til gángna á haustum, eptir því sem hvørju bygdarlagi hæfir, og sérhvørr Sýslumadur, med Amtmanns samþycki, nidurskipar um gaungur og fjallskil i sérhvørri sýslu. Þetta samqvæmt Jónsb. Llb. XLVI. og XLIX. Kap., og Kóngsbodi frá 20ta Febr. 1754. Fé, sem ofan slángrar á sumrum úr afrétt i qvíféi manna, skulu bændur, ad Hrepp-

stjór-

stjórans fyrisögn, láta á viku hverri úrskilja, og nágranna leggia saman til ad vísa því upp aptur á afrétt. Hverr sem í nágranna óleyfi heldur géldpeníngi heima í högum á sumrum, ødrum til meins, ellegar ecki skilur úr adkomu fé, og vísar á afrétt upp, ad Hreppstjórans bodi, sektist um 8 ß. á viku, eptir þad honum er advaran gjørd, fyrir hvert kúgyldi og ótamid hross eda trippi, hann þanninn þverskallast vid ad reka á fjøll.

Hreppstjóri skal og fólkinu í gaungur og ølln vid þær þanninn nidurskipa, ad eckert pláts í afréttum verdi óleitad, og ákjæri sérhvern til sekta, er mótmælir og ecki hlýdnast. Hann láti fjár-úrgáng, hvar saudaréttir eru nánar, gánga med hreppsmønnum rétt úr rétt, en í hverri Skila-rétt uppskrifist náqvæmlega lit, aldur, mark og kyn þess, er afgángs verdur, setji þad nidur í hreppnum til hyrdíngar, samanberi vid sýslunnar Markatøblu, og lýsi þarhjá markasedli þessa ó-skila fjár vid kirkjur í hreppnum, þá nærst er messad, og sendi Sýslumanni annann samhljóda markasedil, ásamt áunndareikníngunum. Sé egandi þess ecki framkominn med skilríki fyrir marki sínu og eign á þeim, og hafi fé sínu rádstafad fyrir Nýttár, haldi Hreppstjóri, Sýslumannsins vegna, opinbera Auktion á þessu óskila-fé, fyrsta rúmhelgann dag á árinu, sem vedur leyfir, og á réttum þíngstad, standi Sýslumanni skil á 16 ß. af hverjum 1 rdl. kaupverdsins, fyrir Auktions-laun og afgjald af aukatekjum hans, eptir Tilskip. af 21ta Okt. 1803, eignist sjálfur adra 16 ß. fyr-

ir

ir ómak sitt, og sá er kindurnar annast þángad til, sømuleidis 16 ß. af hvørjum 1 rdl., fyrir haga, hyrdíngu og fódur, en helfíngurinn, edur ½ rdlr. geymist í sveitar-kassanum, uns manntals-þíng nærstu eru hjálidin, og mørkum þar sídast lýst; eignast fátækir þá þann hlut andvyrdisins, ef engi inn sannar á því eign sína innan nærstu Mikjáls messu. Komi egandi fyrir Jól eptir fé sínu, semji sjálfur vid þann, er geymir, um hyrdíngar-kaup.

§. 29. Í Saudaréttum skal Hreppstjóri øllu fyrirskipa, hvørjir og hvørsu margir í einu draga megi saudfé, og nefna til menn ad granskoda fé í sérhvørjum dylki eda kró, ádur út sé hleypt, haldi vid allt þetta náqvæma reglu, og ákjæri sérhvørn hlífdarlaust til 1 rdls specie sekta, eptir §. 9. og bodi Konúngs frá 21ta Júlii 1808, er ecki gódfúslega og med skyldugri vyrdíngu hlýdnast honum. Tvøfeld sekt liggur og vid, dragi nockur fé sitt úr afrétta safni annarstadar, enn í réttum saudaréttum, ellegar leiti þad úr afréttum fyrir gánguatíma, nema hann þurfi brádlega fáeinu ad farga, en leidi þá votta ad því, hann úrtók til þess, og gjøri samt full Fjallskil.

§. 30. Svo ad egendur óskilafjár því heldur uppgøtvist, skal Hreppstjóri ákjæra hvørn þann búanda í sveitinni, sem óskilsamlega leynir eda undandregur hálfum mánudi lengur, eptir Jónsb. Llb. L. Kap., vid sóknarkirkju og vid Hreppstjórann ad lýsa med greinilegu marki, øllu því ókunnugu saudfé, sem er med fé hans, og egandi hefir

 ecki

ecki fyrirbedid; líka skulu á næsta Manntals-þingi, eptir gjørda innkøllun þartil í þíngbods-sedlum, af Sýslumanni uppskrifast, sérílagi fyrir hvøru hrepp, en í eina tøblu fyrir alla Sýsluna, øll saudfjár-mørk í henni, med egendanna hjá-settum nøfnum og heimilum, til hvørs sjálf Jónsb. í Lb. XLVII. Kap. hefir jafnvel ætlast. Skal hvørr ábúanda segja til allra marka og þeirra eg-enda á hans bæ, enginn mega brúka fleiri mørk enn eitt, og eckert mark eda audkénni gylda, nema eyrna-mark; skal Hreppstjóri umsjá, ad eptir þessum XLVII. og XLVIII. Lb. Kap., um fjár-mørk, sé breytt. Af Marka-tøblunni sendir Sýslumadur sannada útskrift, eina í hvørn hrepp, skal Hreppstjóri geyma hana og vandlega yfirskoda, hvørt nockrir í Sýslunni egi sammerkt, og ef svo reynist, umsjá ad vid þessu sé án dvalar gjørt, sømuleidis advara sérhvørn búanda, ad fjølgi mørkum eda þau breytist á bæ hans, gyldi þau alls eckert, nema þeim verdi á næsta manntals-þíngi ad løgum lýst, hvad hann þá bidur Sýslumann áteikna Markatøbluna. Eins skal sérhvørr er flytst inní hreppinn, skyldugur ad lýsa saudfjár-marki sínu, eptir tjedum lagagreinum. Annars skal Markatøblan ætld vera til eptirsjónar hjá Hreppstjóranum, til uppgøtvunar eiganda óskila-fjár, og ný Markatabla af Sýslumanni sem-jast hvørt 5ta ár, og sendast í alla hreppa Sýsl-unnar.

XIX.

## XIX. Um Grenjaleitir, Refaveidar og Dýratoll.

§. 31. Hreppstjóri samankalli búendur í hreppnum, sem af saudfé 6 fullordid eda fleira hafa í umrádum, til Grenjaleitar, þann fyrsta hjartann vedurdag, þá 7 vikur fullar eru af sumri, og hafi ádur úthlutad hverjum bæ visst og sama pláts ár hvert til fjalls, hvar fjall-land nockurt liggur undir hans heimaland, sem hann ásamt þessu svo vandlega láti leita um ad Tóugrenjum, ad hann, ef hyrduleysi eda svik reynast þar í, og tóur þessvegna leida sídan út í hans landi þad sumar, sektist um 1 rdl. til sveitar-kassans, sem eptir Sýslumanns Vólití-álnktun úttakist úr hans búi, borgi hann ecki gódviljuglega. En hvar afrétt tilheyrir einstökum bæ, sem fyrir upprekstur þyggur Lambatolla, þar skal afréttarbóndi þaramót skyldugur vera ad hreinsa afréttar-landid med duglegri grenjaleit, af nógu fólki, um sama leitid á vorum, og missi ella, ef hyrdulaus þarf finnst, tilkall til lambatolla, eptir ákjæru, sem Hreppstjóri hér um skal honum á móti hafda. Sömuleidis skal hann standa kostnad allann til ad vakta og vinna gren, sem í hans afréttar-landi finnast.

§. 32. Hvar sem leitarmenn finna tóugren á vorum, skilji þeir strax eptir mann vid þad til voktunar, uns skytta kémur þar ad, hvörja Hreppstjóri fyrirfram skal hafa pantad, og sendi þángad strax, en afréttar bóndi eins, eptir nærstundan-

gángandi Art., í sín afréttar-lönd. Með skyttunni skal æ vera fullorðinn maður á sérhverju greni, til að vaka og vakta það til skipta, og eckert gren má, á meðan dýrin ecki náft, eða yrrlingar, svoðúið yfirgéfa, að færu vedri, í full 6 dægur. Verði í urðum þángað til óvinnandi þeim að ná, skal loks reyna að svæla þá inni, og síðan, sem vandlegast, byrgja allar nálægar holur. Sé byssa, púður eða skytta einhvørsstaðar ófáanlegt, skal samt grenin vakta og yrrlingana útsvelta, veiða og drepa eptir mögulegleika, og að því leiti verður, dýrin sjálf með duglegum dýrhundum; annars má hundur aldrei fylgja leitarmönnum eða skyttu á gren, undir 2 rdls. sekt til fátækra.

§. 33. Að þessu öllu vandlega sé eptirlifað, skal Hreppstjóri umsjá, og þarhjá skipta bænnum í aðgreindar deildir, frá einum sveitar-enda til annars, segja fyrir, nær fyrstu deildar bæamenn skulu leit byrja, en hinir bíði, uns sjest, hvørt nockurt gren þar finnst, og þángað til það er unnið eða yfirgéfið; síðan taki nærstu deildar leitarmenn við, og þanninn hvørr flockur af øðrum með sama skilyrði, svo ecki vanti skyttur á gren, ef margir leitudu í einu og mørg gren finndust. Hann skal vægdarlaust ákjæra mótþróa og hyrðuleysi í þessu, til 1 rdls specie sekta af sérhvørjum. Skyttunni útvegar hann fæði og 2 rdli í kaup á hvørt heilt gren hann vinnur, en 1 rdl kúrant á hálft, og manninum, sem með honum liggur á greni, fæði og 16 ß. á dag hvørn. Nái skyttan

engu,

engu, fær hún einúngis fædi og 16 ß. á dag. Utansveitar skytta fær sanngjarna þóckuun ad auki fyrir ferdina þángad.

Þared fátækum, eins og þeim efnugri er likt skadrádi búid af bitvargnum, skal Hreppstjóri skipta þessa kostnadar summu uppá skyttu vid gren og vöktun þeirra, eptir fjármegni, nidur á sérhvörn búanda, sem i fardegum hefir 6 fullordnar, þad er: eldri enn veturgamlar, saudkindur eda fleiri i eign eda ábyrgd, og þareptir útreikna sérhvörs Dyratoll, sem ásamt tíundum á haustum innkrefjist, og útleggist eptir rádstöfun Sýslumanns, án frekari lögsóknar, eptir Kóngsbr. frá 11ta Apr. 1781; en hafi nockurr þad ár veidt 1 fullordinn eda 2 únga Melracka, verdur hann dýratollsfrí þad árid, og sjálfur Hreppstjórinn er þad ætíd, eptir 55. Art. No. 1.

## XX. Um Vallar- og Fiski-garda og Hjalla vid sjó.

§. 34. Eins og umhyggja fyrir landyrkju framförum, er Hreppstjóra á hendur falin í 11ta 14da og 27da Art., svo ber honum og, eptir Tilskip. frá 13da Maji 1776 §. 8, 9, 16, ad áminna um góda umhyrdíngu, ræktun og umgirdíngu valla; sömuleidis ad fiskigardar og hjallar vid sjó, séu af sjófólki hladnir til betri verkunar og vardveitslu fiskifángs, og til kjötþurkunar á Færeyinga hátt.

## *XXI.* Um Kál- og Róta-garda.

§. 35. Flestu fremur, er til landyrkju hörfir, skal hann láta sér hugfast, med alúd, ad innræta almenníngi lyst og góda vidleitni med kályrkju, kálróta- og jardepla-abla, allstadar hvar faung eda líklegheit eru til; enda hjátrú og hleypidómum heimskíngja gégn svo mikilvægu og gódu bjargrædis medali, og sjálfur ætti hann kosta kappi um, ad vera ödrum hér í góð fyrirmind.

## *XXII.* Um Vegabætur, Rudnínga, Vördur, Sæluhús, Ferjur og Lendingar.

§. 36. Samqvæmt Jónsb. Llb. XLIV — XLV Kap., en einkum Kóngsbr. frá 29da Apr. 1776, skal Hreppstjóri gángast fyrir og árlega nidurskipa vega-rudníngum og vega-bótum, þartil kalla almúga, hvers skylduverk þetta einsamans er ad framqvæma, ásamt duganlegri brúargjörd yfir forød, vördu hledslum á heidum, og sæluhúsa byggingu á stórum fjallvegum; sömuleidis á hann ad adstoda búendur, sem fyrir honum klaga, ad ferdamenn ridi eda reki yfir tún þeirra eda engi, med því ad leggja hald á hross þeirra eda farángur, uns lagabótum fyrirsvara, til hvörra og alls kostnadar útsvars, hann annars ákjæri þá sèku fyrir Pólití-rètti, og þá sem dyrfast ad beita gégn honum ofríki eda íllyrdum vid þessa hans embættis framqvæmd, óráðvöndum til hegníngar og eptirdæmis. Med lögferju-

hald

hald og flutnínga yfir vatnsføll, skal hann, þar sem þær í hans umdæmi finnast, einnig hafa tillit, ad reglugjørdum Yfirvalda um þær og þeirra vidhald, ásamt sérlegra stórbrúa, sømuleidis um tolla til þeirra af ferda- og ødru -fólki, og greidann flutníng, sé med hlýdni í øllu lifad.

§. 37. Þared gódar lendíngar vid sjó, hvar skip eru brúkud, eru þó enn naudsynlegri fyrir bjargrædis útvegi og frelsi manna úr lífsháska, þá skulu Hreppstjórar vid sjóarsídu strengilega tilhalda sérhverjum jardar ábúanda vid sjó, med sjófólki sínu duglega ad rydja, og sídan árlega ad passa gódar varir og lendíngar fyrir hans lód, allstadar hvar vidþarf og fært er, leggja þar til rád, eptir plátzins yfirskodun, og setja hønum fyrir vissann tíma, innann hvørs þetta árlega sé fullgjørt, undir 1 rdls spec. sekt til sveitar í hvørt sinn, fyrir mótþróa eda hyrduleysi.

## *XXIII.* Um Kaup og Sølu.

§. 38. Hann skal adgæta, og tilkynna Sýslumanni, hvørt réttur mælir og vigt, alin og mælikérhøld, etc., eptir Tilskip. frá 18da Júníi 1784 §. 5, 17, 19, 20, 23, í sveitinni brúkast; hvørt óleyfilegt práng med tóbak og brennuvín, edur sala á útlendum kramvørum, af þeim, sem ecki hafa rétt til þesshattar kauphøndlunar, eda á óleyfilegum stad í hreppnum framfer, og hvørt bændur, heimildarlaust af Yfirvøldum, gégn Plakatum frá 1ta Júníi 1792, 23ja Apr. 1793, og

Til-

Tilskip. og Resol. af 13da Júnii 1787, einninn 19da Febr. 1783, leyfa sér þvílíka í hreppnum; þeir eda adrir kaupskap vid framandi þjódir, gégn Tilskip. þann 13da Júnii 1787, Kap. I. §. 2—8, án Háyfirvalda auglýstu samuluga eda leyfis; semuleidis, hvørt nockurr, nema réttur Apóthekari eda Læknir, selur læknis medøl; hvørt skémdar matvørur eru seldar, einkanlega mót Yfirvaldsins forbodi, og Tilskip. af 13da Jún. 1787, Kap. II. §. 2, 15, eda brennuvín ferdafólki og ødrum í staupatali, hvarmed honum í 7da Art. er ádur uppálagt umsjón ad hafa.

Um veturnætur sendi hann Sýslumanni lista yfir jafnaſt gángverd aflidid sumar, á hellstu inn- og út-leyndum vørum í kaupstad og manna á milli, bædi mót peningum og landaurum

XXIV. Um Hlaupa-lækna, næmar sóttir, Sjúka, Ljósmædur, etc.

§. 39. Nákvæma tilsjón skal hann hafa um hlýdni vid þær konúnglegu Tilskipanir, frá 17da Apr. 1782, 5ta Sept. 1794, 27da Maji 1808, um vareygdir, þegar skjædar sóttir, bóla, blód-sótt, sleckú- edur ønnur hættuleg sótt, sem dreifir sér út, uppkémur, og ad hlaupalæknar án leyfis ecki fáist vid lækningar, hreppsmønn-um til heilsuspillirs, hvad hann tilkynni Sýslu-manni; hann áminni um góda adhlynningu og þjónustu sjúkra sveitar ómaga, sæti hentugleik-um ad koma holdsveikum á Hospítøl og á ad-

greinda

greinda fámenna stadi, en sjái um, ad þeir haldi sér frá samkomum manna; innræti almúga, hvørsu ârîdandi til lífs og heilsu heilnæmt og friskt lopt er, í stad skemmds af innitepptum dømvum, hldu, stækju, reykjarsvæln, skemmdum matarvistum í sverhúsum, blautum skinn- og ødrum fatnadi, og yfir høfud: hvílikt vanheilsu- og banaefni allsháttar óþrifnadur sé, og þarhjá úldid, slæmt og gruggugt neytsluvatn, fyrir hvørs betrun med brunnagrøftum og hreinsun allstadar, einkanlega í sjóplâtzum, Tilskip. af 13da Júnii 1787, Kap. III. §. 1. skyldar hann til ad gángast. Holdsveikra giptíngar og þeirra, sem til spitelsku vyrdast líklegir, skal hann kroptuglega hindra, eptir 14da Art. og Kóngsbr. frá 28da Martii 1776; tilkynna Sýslumanni, ef nockurr brýtur mót því, sem 38di Art. tiltekur um læknisdóma sølu, og gjøra þeßháttar læknismedel øll upptæk, uns dómur áfellur. Adgæta skal hann vandlega, hvørt Yfirsetu-konur í hreppnum med kostgæfni, kunnáttu og án mannamuns, gjøra dyggilega sitt verk, eda hvørt skadi verdur ad, eda grunast af forsómun og hyrduleysi, vankunnáttu eda stirdleika þeirra, allt eptir aldri og âstandi; vera âsamt Sóknarprestinum annars í útvegun um heilságóda, gáfada og rádvanda Yfirsetu-konu, hvørja hann og sveitarkaßinn, med Sýslumanns samþycki, styrki til ad fá vel og naudsynlega mentada í þenni ómissanlegum Ljósmædra frædum, uns hún, eptir yfirheyrslu af Læknir, verdur ad bodi og samþycki Amtmannsins í eid tekin af vidkomandi Sýslumanni.

## *XXV.* Um Hospitøl.

§. 40. Hreppstjóri í sveit þeirri, hvar Hospital finnst, hafi tillit med Hospitals-jardarinnar og hennar húsa og ábýla vidhaldi, samqvæmt Tilskip. frá 27da Maji 1746, §. 3, 13, og í verplátzum øllum gángi hvørr Hreppstjóri hardlega eptir, láti hyrda og umanníst alla Hospitals hluti, mót launum, eptir hennar §. 19da; grenslist eptir um og ákjæri allann afdrátt og þjófnad í skiptum til þeß, og gefi Sýslumanni greinilegann lista yfir øll smá og stór skip og báta, sem þá gengu til sjóar í hreppnum, þegar abla átti ad løgum Hospitali ad skipta í sérhvørjum stad, eptir Hospitals Tilskipunarinnar §. 19da.

## *XXVI.* Um Kirkna og Þínghúsa byggingar.

§. 41. Tilskipanin frá 29da Maji 1744, bannar í 24 Art. ad halda Þíng í kirkjum, og býdur almúga ad leggja saman til Þínghúsa-bygginga; og Reglugjørd þann 17da Júlii 1782 í 15 Art., ad sóknarbændur hladi ókeypis kirkjugarda og kirkjuveggi og þeki þar, einninn flytji ad timbur og efni til stór-adgjørda þeirra. Af sømu orsøk ber þeim og ad hlada hestaréttir vid kirkjur, hvar og þegar kirkjuhaldarinn þeß óskar, svo ad sóknarfólks laušra hesta trædk og bit ecki spilli Prestagerdum og túnum. Þeir sátækustu fái fædi á medan verkid yfirstendur einnsinni á dag. Fyrir nidurskipun og framqvæmd

þessara

þessara starfa, skal Hreppstjóri gánga, en velja til fólki hentugann tíma, bædi med þeßi og önnur skylduverk almúgans, ad því leiti mögulegt er ad lempa þeirra framqvæmd, eptir þeim tíma, sem almenníngi á sérhvörjum stad verdur sem bagaminnstur, í tilliti til annara bjargrædis útvega.

## XXVII. Um tilsjón med Fjárhaldsmönnum.

§. 42. Hvar sem ómindugum eda vanfærum í sveitinni skiptist arfur, og afhendist Fjárhaldsmönnum, ellegar ómagar og arfar eru hjá fødur eda módur vid óskipt bú, skal hann hafa ydugleg tillit hvörsu börnum og örfum er þar borgid, um þad áminna vidkomendur og tilkynna Sýslumanni, hvad hann í uppheldi eda fjárhaldi sinnur ábótavant, einkum hvar hann sjer arf þeirra svo ad tæmast, ad óttast megi, bornin um skammt verdi hrepps ómagar, máské alla æfi, bresti þau gott uppveldi og kénnslu; sömuleidis umsjái hann, ad giptíngar eckjufólks, sem situr í óskiptu búi med ómindugum börnum, ecki átölulaust framfari, nema med því skilyrdi, sem Tilsk. frá 23ja Aug. 1793, og Kóngsbr. frá 29da Apr. 1796, fyrileggja.

## XXVIII. Um Vinnuhjú, vistarrád barna og Sveitar-uppalnínga.

§. 43. Í tilliti til vinnuhjúa, vistarráda barna, og þeirra, sem uppalist hafa á sveitar-ölmusum, hafi hann sér hugfest til reglu, bod-

ord Tilſkip. af 3ja Júnii 1746, um húsaga, §. 12, 14, 23—25, 33, 26ta Maji 1746, um húsvitjanir, §. 14, og ennur þaradlútandi leg; einkum ſkal hann umſiá, ad vinnuhjú ecki útarmi fátæka báeudur med ókoſtum, ſvoſem fódrar- eda haga-peningi, eda einſkordun fiſkiabla ſins ad heilu eda hálfu, kaupa- eda hjá-vinnu fyrir ſjálft þad, og ákjæri þá, ſem héri finnaſt brotlegir, til ſekta; lauſamenn ad heilu eda hálfu til lauſamennſku ſtraffs, en þá er áſkilja, og eptir því fá annad í kaup enn peninga eda fatnad, til 2 rdla ſekta, bædi fyrir húsbóndann, og eins 2 rdla fyrir vinnuhjúid, hvørjir 4 rdlr falli til Hreppſtjóra.

## XXIX. Um Vitnisburdi og Paſſa.

§. 44. Eptir húsaga Tilſkip. af 3ja Júnii 1746, §. 26, ber ſérhvørjum húsbónda ad gèfa hjúi ſínu, ſem á burt fer úr viſt, ſannann vitnisburd um þeſs breytni í viſt med honum, rètt eins og þad á hann ſkilinn, og bæti ella 32 ß ſekt til fátækra. Taki nockurr, eptir þad þetta Inſtrúx er í ſveitum auglýſt, hjú í viſt, án þvílíks vitnisburdar, ſtraffiſt ſem ſá, er hýſir paſſalauſing, med 3 mks ſekt til fátækra, á hvørja viku. Húsbænda vitnisburdi hjúum gèfna, ſkal Hreppſtjóri fyrir óſkrifandi almúgafólk ſkrifa, en alla uppáſkrifa, og þar til krefja einninn alla paſſa adkomanda og lángferdamanna, og dagſetji nær þeir vóru þeim ſyndir, og fái 2 ß. fyrir ſérhvørn. Paſſa þarf þó ecki vid til ſins Diſtrikts kaupſtad-

ar,

ar, snögga ferð til verðslunar, ecki heldur til verferða í somu eða næstu Sýslu, og ecki til innansýslu ferðalags. Engum má Hreppstjóri samt passa eða vitnisburði gefa, undir ½ rdls sekt, nema hjúum þeim, sem fara úr vistum, einkum þá húsbændur reynast að synja þeim vitnisburða, en um betlibréf er áður sagt í 24da Art., í hvörju tilliti hann breyti í öllu, eptir Tilskip. af 3ja Jún. 1746 um húsaga, §. 26, 27, og um Hospitöl af 27da Maji s. á. §. 13, samaubor. við Köngsbr. frá 7da Apr. 1780, 10da Mart. 1784, og Fúndaþ. af 3ja Mart. 1784, og 24da Art. hér að framan.

## XXX. Um Húsmenn og aðkomufólk.

§. 45. Hreppstjórar við sjóarsíðu hafi vakandi umsjón þess, að enginn setjist þar að, sem Tómthúsmaður framvegis, nema með því skilyrði, sem konúngleg skipan, af 21ta Júlii 1808, á prenti auglýst frá Stiptamtinu þann 11ta Maji næstliðna, þarum fyrileggur, og í tilliti til aðkomandi og ókunnugs fólks, haldi þeir sérhvörjum, húsfeður allstaðar strengilega til að hlýðnast náqvæmlega og tafarlaust Köngsbréfinu um passa- og atteste-lausa, útgéfnu 11ta Apr. 1781, lögsæki hyrdulausa hérum, án hlyfdar, til sekta, ásamt þeim aðkomandi passaleysingjum, svo að hvörki nái þeßir kynníngarlaust nockursstaðar í hreppnum að staðnæmast, né heldur að stórbrota- og strok-menn finni þanninn skýli.

XXXI. Um Landhlaupara edur lausgángara og lausafólk.

§. 46. Enginn Hreppstjóri skal líða nockurn landhlaupara eda lausgángara, ellegar nockurt fólk í lausamennsku ad heilu eda hálfu í hreppnum, hafi þará mestu adgætslu, og hvert nockurr í yfirhylmíngu þanninn dvelst í vinnuvistar nafni, og løgsæki, bædi þessa og þá Húsbændur, hverjir hellst sem vera kunnu, er ljá þeim hús, eda ósatt fyrirbera, ad lausafólk sé þeirra hjú, til ytrustu sekta og straffs, samqvæmt Tilsk. frá 19da Febr. 1783. § 2 — 4, Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, og Tukthús Fund. 3ja Marts 1784, §. 1, 2, *a*) og *b*), vilji Hreppstjóri ecki fyrir forsómun í þessu, sjálfur ákærum sæta.

XXXII. Um flackandi Betlara, Betlibréf, Strokmenn og Sakafólk.

§. 47. Hvørki má Hreppstjóri líða nockurri manneskju, sem ecki hefir sins rètta Sýslumanns passa uppá umferd innansýslu, ad flacka um hreppinn og betla, ne heldur má hann dyrfast ad gèfa nockrum leyfi þar til, enn sídur fátæktar attest til betls, undir 3 mrk. sektir til fátækra, eptir Kóngsbr. frá 10da Mart. 1784, og 24 Art. hér ad framan, heldur skal hann hafa vakandi auga yfir, ad enginn búandi sleppi nockrum af bæ sínum burt á betliferd, ljái eda leigi þeim hesta þartil, heldur, reyniſt þad, ákæri strax

hinn

hinn seka þar fyrir, og eptir hærstnefndu Kóngs-bréfi og Tukthúß Fúndátzlunni frá 3ja Mart. s. á., undir alls málskostnadarins sekt, láti færa sérhvørn betlara og adkominn passalensíng, er flackar, undir løg og dóm. Hann skal, þegar hann vitnesskju fær um sakamenn, sem handtakast ega, eda eru úr fángelsi strokuir, ellegar eru í Tukthús eda til þyngra straffs dæmdir, láta þá til fánga taka, og samqvæmt Tilskipun um húsaga af 3ja Júnii 1746, Kóngsbréfi frá 10da Maji 1788, skipa bændum ad flytja þá í rétt vardhald, sveit úr sveit til næstu sveitar Hreppstjóra, eptir Sýslumannsins rádstøfun.

## XXXIII. Um Akjærur í Saka- og Pólití-málum.

§. 48. Pólití-saka mál, sem í hreppnum tilfalla, um yfirsjónir gégn þessu Instrúxi, og þarí tilnefndum lagagreinum, skal Hreppstjóri løgsækja, og þar fyrir njóta launa ad løgum; sömuleidis ønnur sakamál, sem hlutadegandi Yfirvøld honum á hendur fela.

## XXXIV. Um fángahald, fángaflutníng og Pólití-aga.

§. 49. Fángaflutníng skal hann fyrirskipa án tafar, þegar vidþarf, eptir Dómum, Dóm-stóla- eda Yfirvalda-fyrisøgn, til næstu sveitar Hreppstjóra áleidis, eda þángad, sem fánginn á vardhald ad gista, hepta alla strokmenn og illvirkja

ja úr fjarlægum sveitum, um hverra misgjørd eë vissa eda sterk grunsemd, og þeir án passa finnast, samqvæmt NL. 1—17—4, en tafarlaust tilkynna Sýslumanni þeirra handtøku. Flutníngur þeirra framqvæmist af almúga í leidinni, eptir Hreppstjórans fyrisegn, beint eptir Kóngsbr. frá 10da Maji 1788 og 25ta Júlii 1808; eptir því sídara á Hreppstjórinn, hvar einúngis einn er í hrepp, en hvar 2 eru, þá sá þeirra, er Sýslumadur þad fyrisegir, ad halda sakamenn i vardhaldi, svo vareygdarlega og í járnum, ad þeir ecki sleppi, gjaldi ella þá sekt, er Fúnd. 3ja Mart. 1784, II. Kap. § 8. tiltekur, verdi þad af vangá, en ef med vilja skédur, er sektin eptir NL. 1—17—3, 5, og Kóngsbr. frá 5ta Apr. 1748 og 5ta Febr. 1790. Hreppsbændur eru skyldugir ad styrkja hann til skiptis, til þeirra vøktunar, og fær hann forsorgun sakamanna borgada, eptir því, sem Sýslumadur í hvørt sinn, eptir tíd og ástandi, sanngjarnt metur; þó er honum, eptir seinast nefndu Kóngsbréfi, ecki leyft ad láta fánga lausa starfa til vinnu, sem verdur Hreppstjórans egin ábyrgd. En vilji hann sjálfur þeirra vøktun umannast í hreppsbændanna stad, fær hann fyrir hana, auk fánganna forsorgunar, 1 rdl. á viku hvørja, fyrir sérhvørn fánga, eptir Kóngsbréfi frá 25ta Júlii 1808, §. 3, og Cancellibr. af 20ta Maji 1809.

Pólití-aga fyrir en smærri afbrot og þess háttar hirtíngar, sem ecki orsaka kunna neitt æruleysi þeim seka, heldur ad eins vandarhagga rádníngu inni og afsídis, ætla eldri og nýrri løg

til,

til, ad fángahaldarinu siálfur áleggi eda láti áleggja, hvert sídara þessvegna verdur hans skylda, eptir hærstnefnds Köngsbr. §. 7, Tilskip. af 20ta Febr. 1789, §. 6, og Köngsbréfi af 24da Nóv. 1741, í samburdi vid Köngsbr. frá 2rum Maji 1776, §. 1, þó ætld eptir Dómi og Yfirvaldsins skipun. A medan Gapastocks straff, sem þó var miklu smánarfyllra, leysdist hér, var Hreppstjórum eins í lögum ætlad, ad setja seka í hann. Sanngjarnt er, ad Hreppstjóri fái 2 rdli af Sakafallskassanum fyrir hverja assidis birtingu med vendi, og skal hann láta hana áleggja í nockurra almúgamanna viðurvist, eptir sollnum dómi, og um þess vottanlegu og löglegu framqvæmd, senda Sýslumanni skriflega ávísun. Þarámóti er stærri illvyrkja hegning, sem ecki reiknast kann til Póliti=aga, svo sem kagstrýking og álegglug þyngri straffa, honum öldúngis óviðkomandi, sem Pólitiþénara, og áleggst af Skarpréttaranum einum.

## XXXV. Um Löggjafa og Yfirvalds=skipana auglýsingar og eptirbreytni.

§. 50. Ný lög og Yfirvalda fyriskipanir, sem ecki byrtast á þingum, eda sem útkoma, eptir þad regluleg þíng eru umlidin, láta Yfirvöldin Hreppstjórana auglýsa almúga, sem einmidt ad þessara fyrisögn gjörist án dvalar, med því ad festa þær upp á opinbera stadi, á þingstödum vid þíng, kirkjustadi þá embættad er, í kaupstödum og verplássum, eptir því sem bodid verdur,

og med því ad lesa þær upp vid kirkjur eptir embætti, og vid þíngbold; og skal Hreppstjóri uppteikna og dagsetja, hvør løg eda Yfirvalda skipanir eru af prédikunarstólum, hvør eptir embættisgjørd vid kirkjur, og hvør annarstadar og hvønær af Prestinum eda honum, almúganum byrt, og þar yfir árlega géfa Sýslumanni greinilegann lista. At hann sídan ad hafa tillit til, hvørtsu eptir þeim er breytt, áminna þar til, og tilkynna Sýslumanni misbresti þará, líkt og fyrilagt er í 9da Art., um óhlýdni vid Hreppstjóra fyriskipanir.

## *XXXVI.* Um Forlíkunarmenn, stefnufarir og Dóma-byrtingar.

§. 51. Eptir Tilskipun frá 3ja Júv. 1796, §. 18, sé hann jafnan stefnuvottur, nema þegar hann sjálfur er málspartur; líka er hann réttast kjørinn, ad minnsta kosti, uns hann sín vissu ár þjónad hefir, eptir bodi Tilskip. af 20ta Janúar. 1797, sem Forlíkunarmadur í Sættanefndum, samqvæmt Cancellibr. frá 25ta Aug. 1798; sømuleidis auglýsi hann alla Dóma í sveit sinni, allt fyrir áqvedid kaup ad løgum.

## *XXXVII.* Um útlag gjalda, offurs, bóta, etc. ad løgum eda Dómi.

§. 52. Ad bodi Sýslumanns eda Amtmanns gjøri hann útlag innistandandi þegnskyldu, tolla, bóta, málskostnadar, offurs og annara út-

útláta, eptir legum og Dómi, Kóngsbr. frá 11ta Apr. 1781, og 4da Júnii 1790, eptir lagareglu, og bodi Tilskip. frá 18da Apr. 1781, §. 4, og 15da Dec. 1797, til hvers Sýslumadur géfi honum fyrisögn og vegleidslu, þar þetta leyfist honum einkanlega, sem Pólití-þénara og Medhjálpara Sýslumanns og uppá hans ábyrgd, til léttirs med ferdalög og embættisverk þessi í stórri Sýslu. Kaup hans fyrir þesshattar störf, sé samqvæmt Tilskip. frá 18da Apr. 1781, §. 7, 20 ß. á sérhvörjum stad, og 12 ß. fyrir hest handa honum á hvörja mílu; 2 vitni af nálægum búendum hefir hann med sér, sem gégni kalli hans þartil, undir 1 rdls specie sekt í hvört sinn, ef mótþróa sýna, en til þesshattar vitna kalli hann þó bændur til skipta og jafnadar, eptir bæarød um hreppinn. Hvört þeirra fær fyrir þad 8 ß. á sérhvörjum stad, sem útlag gjörist, og 12 ß. fyrir hest yfir hvörja mílu, en tvöfaldt fyrir hvörja viku sjáar, sem þeir þartil yfirferdast,

## XXXVIII. Um Búa uppskriftir og vyrdíngar, Skodunargjördir, Utrekt-ir, Auktiónir.

§. 53. Hann skal hafa rétt til ad vera vid allar uppskriftir og vyrdíngar í búum, líka, hvar Skiptaforvaltarar þess óska, skrifa þau upp sjálfur og vyrda; vid skodunargjördir, útrekstir jarda og Auktionir, sé hann æ viss Nefndar-skodunar, vyrdíngar-madur og vitni.

A Sýslumanns ábyrgd má hann í fjarlægd halda smávegis Auktionir í forsollum hans, þegar Sýslumadur hanninn selur honum þad á hendur og beidist Kaup hans fyrir sterk þeþi, sé eptir Art. 55, eda seinna útkomandi fyriskipunum. Vyrdíngar skal hann jafnan laga eptir lidugu medal sölu og almennu gáng-verdi sérhvørs hlutar á þeirri tíd, sem hann vyrdtur er.

## XXXIX. Um Hreppstjóra Embættis-vyrdíngu, verdugleika og laun.

§. 54 Hvørsu árídandi, almenníngi þarflegt, í sjálfu sér veglegt og heidurlegt Hreppstjórnar embættid er, sjest af þvi í 56 Art. hér eptir ávikna, og af þeim mikilvægu skyldum, hvørjum legin sjálf og allt þetta Instrúx bjóda Hreppstjórum ad fullnægja. Vor allramildasti Konúngur hefir og látid í ljósi, hvørsu naudsynlegt hann finni þeirra embætti, og þeßvegna sinn allranádugasta vilja og skipun, þann 21ta Júlii 1808, "ad auka þeim þad álit, og þann myndugleika, sem embætti þeirra útkrefur, med "þvi ad bæta þeim laun og auglýsa almúganum," hvad frá Stiptamtinu og þeim konúnglega íslendska Landsyfirrétti er á prenti gjört á danska og íslendska túngu: "ad þad sé Hans "konúnglegu Hátignar alvarlegur vilji, ad "alþýda, med vyrdingu, gégni Hreppstjóranna advørunum, og med hlýdni fullnægi "øllu þvi, sem þeir í laganna nafni, og ad

"bodi

"bodi hærri Yfirvalda fyrisegja, sømuleidis "fúslega adstodi þá i øllu því, er midar til "ad frama góda reglu og almúgastjórn," og er þeim, sem gégn þessu brotlegir finnast, í Stiptamtsins prentudu auglýsingu, af 12ta Maji 1809, hótad mjøg svo straungu straffi. Undir eins fól Konúngur Amtmønnum á hendur, ad ákvarda skyldur þeirra í sérlegu Instrúxi, eptir því sem løg og naudsyn krefdi, í hvørs krapti þetta Instrúx nú er samid, og þeim, sem regla fyrirløgd í 1ta Art. hér ad framan, og í 56ta Art. sameiginlega af Amtanna Yfirvøldum.

Eldri laga skipanir hingad til lands, svo sem þann 29da Maji 1744, §. 7, og 3ja Júnii 1746, um húsaga, §. 35, bjóda: ad Hreppstjórar, í øllum heidurlegum samqvæmum, hafi gáng og sess, vyrdíngu og álit, framar enn allir adrir bændur, géfa þeim Embættis nøfn, ásamt sem Póliti-þjónum og Medhjálpurum Sýslumanna, og bjóda Sýslumønnum med rádum og dád ad adstoda þá í embættisverkum þeirra, hvar laganna skipan hérmed alvarlega strekast. Tilskipan um túngarda, útgéfin 13da Maji 1776, nefnir þá í §. 8, Sóknarfógeta eins og í Danmørku; þeir sem í Norvegi gégna sama embætti, nefnast Lensmenn, og þar opt Undirfógetar, t. d. í Tilskip. frá 20ta Aug. 1778. Tilskipanir þann 29da Maji 1744, um Katekisation, §. 13, og 27da Maji 1746, §. 4, um húsvitjanir, ætlast og til ad Prestar, med rádi Prófasts, velji Hreppstjóra hellst til Medhjálpara.

Hværſu þeir í fleiru mega létta undir með nockur Dómara og Yfirvalda verk, og standa fyrir nockrum markverdum Refnda- og Réttar útréttíngúm, ſýna 51, 52 og 53 Art. hér að framan. Til virdíngar þeim, hefir Konúngur vor einninn eptirlátið, þann 21ta Júlii 1808, Amtmennum að leyfa þeim, sem girnaſt, að bera Hreppstjórnar-Embættis-búníng, neſnilega: bláar eda ſvartar lángbuxur (leiſtabrækur), gult veſti og bláa Treyu, með ekta ſylfurborda um uppſløg og kraga. Fyrir Pólitíþjóna adra, sem miklu minna hafa á hendi er og embættis klædnadur af Konúngi tilteknn, en þenna ſann hann landi voru og áſtandi beſt henta. Konúnglegt Plakat af 27da Nóv. 1801, leggur 100 rd. ſekt til fátækra, fyrir burð Embættis-búníngs af ødrum, enn Konúngur hefir hann leyſt.

§. 55. Þángað til betra áſtand og hentugleikar leyfa að útvega Hreppstjórum ſanngjørn og verðſkulduð laun, fyrir þá mædu og miklu verka- og tíma-tøf, ſem þeirra embættis annir orſaka þeim, verda þeir að láta ſér medfram nægja góda medvitund, að þeir með alúð hafi eblt og ſtudlað til gódrar reglu, landbúſtjórnar og almenníngs heilla, og þarhjá eptirfylgjandi tekjur og undantekníngu þeirra frá almennri þegnſkyldu:

1.) Þeir ſkulu fríteknir vera frá øllu Skatta útſvari til Konúngs og fátækra, eptir konúnglegum úrſkurdi, þann 21ta Júlii 1808, það er: þeir ſéu fríir fyrir ſkatti, gjaf- og Løgmanns-

manns, tolli og tíundum til Konúngs; fyrir öllu útsvari til og öllu framfæri fátækra; fyrir dýra-tolli, kirkju-erfidi og moldarverkum vid þær, einn-inn vida-flutníngum ad henni; fyrir þínghúss-byggíngu og kostnadi þartil; fyrir fángaflutníngi og sakamála kostnadi; fyrir vegabótum og rudn-íngum öllum; fyrir ad kallast sem þíngvitni á þíng, takast ómyndugra fjárhald á hendur, og reiknínga yfir almennings tolla og gjöld, til ann-ara enn fátækra; frír fyrir frísflutníngi Embætt-ismanna og annars. En flutníngsfólk og hesta skulu þeir, eptir réttum jöfnudi, samankalla í sveit-um, þá rétt Yfirvöld bjóda, líka nidurskipa, sem fyrr segir, fjallgaungum, dýraleitum, störfum vid kirkna- og þínghúsa-byggíngar, og vid brúun og vegabætur, en ad öllu leiti vera sjálfir útgjalds- og vinnu-fríir til þessa.

2.) Í öllum málum, sem Hreppstjóri er vidridinn, sem Sækjandi, Svaramadur, Fánga-haldari, Pólití-þénari eda þvílíkt, fær hann allann sanngjarnann kostnad tildæmdann, sam-qvæmt lögum og þeim 48, 49 og 52 Art. hér ad ad framan, einninn eptir konúnglegum úrskurdi, þann 7da, og Cancelli Plakati frá 21ta Martii 1800, um 1 rdls betalíng á dag, fyrir ferdaleg og adgjördir sækjanda og talsmanna í Júftitz- og Saka-málum, þegar hann hefir þessum ad gégna, og auk þessa sanngjörn laun, eptir Tilsk. frá 24da Okt. 1806; fyrir handtöku og flutníng sakamanna til rétts vardhalds í sveitinni, sömuleidis fyrir stefnufarir, Dóma- og Réttar-skjala byrtíngar;

fyrir

fyrir ferdir med Réttarkrefu skiöl, uppsagnir, út-bygglngu og þeßháttar erindagiørdir, til hvørs nockurr annars er fyrir betaling fenginn, en til hvørs alls hann þó ætíd skal hafa laga forrétt, hvørt sem hann brúkast eda ecki, samqvæmt Kóngsbr. af 14da Maji 1762; og fyrir auglýsingar um skipti, auktionir edur þvíumlíkt, nema í Kóngs eda opinberrar þénustu þarfir sé, ad byrta eda uppfesta, á rúmhelgum døgum, og lokfins fyrir siálfs þénustu hans vid skipti og auktionir; skodunargiørdir, vyrdingar, áreidir, landaþrætur og þeßkonar, skal Hreppstióri njóta betalings, eptir koungl. Reglugiørd um aukatekjur í Norvegi af 11ta Júnii 1788, í III. deildar 1, 2, 3, 4, 6, 7 og 8 Art. Fyrir útlag skatta, tolla og annars, eptir þessa Instrúxs 52 Art, fái hann betaling eptir honum, og Tilskip. frá 18da Apr. 1781, en fyrir uppskriftir í búum fyrir sérhvørn dag 48 ß.; sømuleidis skal hann, þar sem hann siálfur ecki giørir búa uppskriftir, brúkast, nema hann þad afbidji, vid sérhvørt skipti í sveitinni, sem vyrdingarmadur og vottur, og fái fyrir þeßháttar verk 24 ß. daglega, njóti líka einn (eda til skipta vid Medhreppstiórnarmañ siñ, hvar 2 verda í sveit saman framvegis) þeß, sem NL. 1 — 23 — 27 leyfir ad reikna búum til útgialds, handa Skiptaforvaltarans þénurum, þar Hreppstiórar eginlega eru hans Embættis þénarar og medhiálparar; þetta samqvæmt Kóngsbr. frá 6ta Júnii 1794. Þeir skulu sømuleidis ætíd kallast til skipta á løndum og húsum úr sameign; til jarda-úttekta og álagsgiørda, þegar

nock-

nockur framfer, einnig til vyrdíngar á fasteignum bænda, sem vedsetjast fyrir ómyndugra erfsum, eda lánarfé opinberra Stiptana, og fái 3 mørk hvørt í kaup daglega fyrir þau størf. (Sjá framar 49da Artíkula.)

3.) Ymislegar laga=fyriskipanir leggja álitlegar bætur vid margskonar yfirsjónir, til skipta á milli Fátækra sveitarinnar og Hreppstjóra. Med því ad hafa skyldu sína jafnann í minni, ad vidhalda gódri reglu og innkalla þeßar fátækra tekjur, halda þeir mønnum til skylduræktar og hlýdnis vid løg og Yfirvøld, efla fátækra og almennings gagn, og munu um leid reyna, ad þeirra kostgæfin Embættis umsýslan, verdur þarmed ecki ólaunud.

## XL. Um Hreppstjóra Eid, Sektir og Afsetníngu, ꝛc.

§. 56. Hreppstjórum er allt framanskrifad í Konúngsins og Laganna Nafni á hendur falid, ecki med þeim tilgángi, ad þeim þarmed gefist vald til ad misbrúka þeirra myndugleika gégn alþýdu, til ad skérda hennar løglegt frelsi, í lifnadi eda bjargrædis adburdum, ellegar eignar umrád og byggíngar og búskapar rétt manna ad løgum, sem æ skal vera þeim heilagur, ecki heldur til ad slá eda ofsækja óvildarmenn, aumíngja og einfeldnínga, heldur til ad vernda þeßa og þeirra eigur ómildra yfirgángi, bjarga þeim, sem eru

 for=

forstedu- og framfærislausir, med rádum og dád;
og sem annars mættu gánga vid vonarvol, eda
hjálparlausir í vesæld útaf deya, leggja einstæd-
íngum og fáráðlíngum lidsinni og heilrædi, frama
alla góda ordu, sidsemi, ráðvendni, þrifnad, skil-
semi, stjórnsemi, góda búreglu, sparnad, atorku-
semi, heilbrygdi, frelsi, innbyrdis frid, og óhult
samlífi manna, í einu ordi: Almennings heill.
Svo vegleg, og svo árídandi er héreptir Hrepp-
stjóranna Embættis umsýslan, hún krefur því,
ad hún einúngis sé rádvøndum dánumanni á
hendur falin, og ad honum undirgéfinn almúgi
viti, ad Hreppstjórinn sé, til hennar ábyggju-
sömu skylduræktar, strengilega skuldbund-
inn. Því skal sérhverr Hreppstjóri, sem fram-
vegis medtekur hjá sínum Sýslumanni Embætt-
is-bréf sitt undir Amtsins hendi og innsigli, mæta
fyrir Pólití-rétti, sem Sýslumadur þartil skal
strax halda heima hjá sér, eptir hinum géfid fyri-
kall, og þar, í 2gja vitna nærveru, med upprétt-
um 2ur fingrum, vinna þann eid: „Ad hann
„af ýtrasta megni, og med hreinskilnustu
„réttsýni, vilji finnast Konúngi sínum
„og Landslögunum trúr, stunda ad fram-
„qvæma allt þad honum, í framanskrif-
„udu

„udu Instrúxi, og samqvæmt þarí-til-
„nefndum lagagreinum, er uppálagt,
„sömuleidis allt hvad útkomandi Lög,
„eda hans réttra Yfirvalda og Dómara
„skipanir honum, í laganna nafni, fyri-
„leggja, og sér, án tillits til vina eda ó-
„vina, ríkra eda fátækra, skyldra eda van-
„dalausra, í Embættinu svo hegda, sem
„rádvöndum Hreppstjórnar-manni
„og Políti-þjóni ber og vel sómir," ad
tillegdum venjulegum eidstaf: „Svo sann-
„arlega hjálpi mér Gud og hans hei-
„laga ord!"

§. 57. Hreppstjóra þann, sem hyrdulaus
eda ótrúr finnst í sínu embætti, klagar Sýslu-
madur fyrir vidkomandi Amtmanni, sem eptir
málavöxtum, innkomnum klögunum, eda fundn-
um yfirsjónum, sektar hinn seka til 2 rdla útláta
til sveitarkassans, eda, ef meiru nemur, lætur hon-
um tiltala med lögum og réttargángi, til bóta eda
Embættis tjóns. Neiti nockurr, sem til Hrepp-
stjóra er settur, því Embætti ad gegna, skal
honum, sem laganna foraktara, tiltala fyrir Políti-
rétti í fyrsta sinni til 2 rdla bóta til fátækra, auk

málskostnadar, og leggja sídan fyrir hálfsmánad=ar frest þareptir, til ad hlýdnast í þessu Amtsins skipun; gjøri hann þad þó enn ecki, sæti aptur laga=tiltali til fjárútláta á ný, auk málskostnad=ar, dæmist óverdugur svo heidurlegs Embættis framar, og ad honum sé trúad fyrir nockrum op=inberum útréttingum, sem krefja rádvendni og dugnad, og þarhjá, fyrir mótþróa samt forakt vid Løg og Yfirvøld, til ad standa ábyrgd og kostnad þann allann, sem þeim, er í hans stad tekur vid þessu Embætti, orsakast kann hid fyrsta ár vid em=bættisverk hans, ellegar, eptir málavøxtum, sæti enn þýngra straffi. Vilji hann ákjæra þann Dóm, leggi hann málid til Landsyfirréttar.

§. 58. En hafi nockurr, sem til Hrepp=stjóra útnefnist, gylda laga=røksemd til ad af=saka sig frá Hreppstjórn, svosem: alþecktann og uppáfallinn lángvinnann heilsubrest, megna hon=um tilfallna fátækt med fjølskyldu, er banni honum ad missa vinnu sína til Hreppstjórnar útréttinga, sæki um lausn sína med allri audmýkt og sidsemd til vidkomanda Amtmanns, sømuleidis má hann, eptir 10 ára góda Hreppstjórn, girnast lausn, eink=um ef heilsa eda burdir hans hnigna mjøg, en hlýdi samt audmjúkur Amtsins úrskurdi, þó honum veitist hún ecki.

XLI.

## *XLI.* Um vardveitslu þessa Instrúxs, og útkomandi Laga og Fyriskipana handa eptirkomandi Hreppstjórum.

§. 59. Öll útkomandi Løg og Yfirvalda skriflegar skipanir, sem Hreppstjóra sendar verda, eptir þad hann medtekur þetta Instrúx, skal hann, ásamt því, vandlega geyma í réttri rød uppteiknad, og nær hann þad medtekur og byrtir, og skal þetta allt vid Hreppstjóra-skipti afhendast hans Eptirmanni óskémmt, og ad því leiti umbreyting ecki ákémur med nýrri fyriskipunum, vera þeim vidtakandi Hreppstjóra framferdisregla í Embættinu.

## *XLII.* Um Instrúxsins auglýsingu.

§. 60. Þetta Instrúx skal sá Hreppstjóri, hvørjum þad sendt verdur, bidja Prest sinn opinberlega ad upplesa í kirkjum í hreppnum, þá Embættisgjørd framfer, þann fyrsta Sunnudag eptir þad Instrúxid kémur honum í hønd, hvar um Hra. Biskupinn hefir Prófastum skipun útgéfid, øllum Sókninni til naudsynlegrar undirvísunar og áminníngar, en sídan skal þad, vid hvør Hrepp-

stjóra=skipti, á næsta Manntals=þingi, birtnast fyrir Almenningi.

Hanninn hlutadegendum til Reglu samid og útgéfid, þann 24da Nóvembr. 1809.

Undir vorum Höndum og Amtanna Innsiglum.

*M. Stephensen. S. Thorarensen. S. Stephensen.*

(L. S.) (L. S.) (L. S.)

Inni.

# Innihaldid.



XXV.